


III. Winnipeg, Man. Nr. 5.

# *Gildi Gamlatestamentisins.*

(Athugasemdir við 'Aldamót' 1893.)

Fyrirlestur þessi var fluttur af séra F. J. Bergmann á 9. kyrkjuþingi Íslendinga í Ameríku.

Sökum þess, að vér hingað til höfum ekki viljað eyða rúmi í Dagsbrún til þess, að athuga varnir kyrkjunnar íslensku gegn hinni svonefndu "vantrú," þá hefir það dregist þangað til nú. En nú skal farið um það helsta fáum orðum.

Þessi fyrirlestur er hin fyrsta tilraun til varnar frá þeirra hendi, og séra Friðrik hefir tekið að sér erfiðasta verkið, að verja biblíuna, verk, sem flestir mentaðir menn kinoka sér við, og ég verð að játa það, að hann hefir leyst það svo vel af hendi, sem nokkur gat búist við, enda er maðurinn vel viti borinn, þar á er enginn efi. En það er annað en spaug, að fara að verja biblíuna, að verja þjóðsögusafn Gyðinga, og gera það að guðdómlega innblásinni bók. Hver sem les sögur þessar ofan í kjölinn, getur um það borið. Og nærri ligg-ur, að séra Fr. B. hafi þar verið forsending ætluð.

Fyrst er eins konar inngangur hjá séra Friðriki. Það er auðséð, að hann finnur hvar skórinn kreppir að kyrkjunni, finnur það, að ef að grundvellinum undan trúarlærdómunum, sem er ritningin ein, er haggað, þá hrynur byggingin um koll á eftir. Hann segir, að það liggi í eðli vantrúarinnar, að neita öllu yfirnáttúrlegu, öllu, sem

vér ekki getum hönd á fest. Þetta er æði óákveðið til orða tekið. Það er margt, sem þessir svo nefndu vantrúarmenn neita ekki, þótt þeir geti ekki handleikið það. Ég skal taka til hljóðölduna, enginn getur séð hana, en þó vitum vér, að hún er til; þannig er um ljósið, þannig er um andlegan kraft. Unitarar eru vanalega taldir með vantrúarmönnum, en þó neita þeir ekki guði, neita ekki öðru lífi, neita ekki siðferðislegu afli. Þeir neita ekki möguleik guðlegrar opinberunar heldur, því að þeir segja einmitt, að guð opinberi sig í verkum sínum, í náttúrunni, í anda mannsins, í sögu þjóðanna, í rás viðburðanna, já og jafnvel í lífi einstaklinga, svo sem þeirra Jesú Jósefssonar, Sókratesar, Buddha, Markusar Aureliusar o. fl., o. fl., En því neita þeir hátíðlega, að guð fari að rjúfa sín eigin lög til þess, að opinbera sig, að hann opinberi sig á móti lögum náttúrunnar; að hann fari að gera það, sem stríðir á móti öllu viti og skynsemi, á móti sannleika og réttlæti. Það lítur því svo út, sem þetta hafi vakað fyrir höfundi fyrirlestursins í þoku og mjög óljóst. En áður en menn fara að verja mál eitt, þurfa menn að gera sér góða grein fyrir því, hvað það nú sé, sem um þarf að tala. Seinna á 11. bls. segir hann, að þeir séu nú ekki svo sérlega margir, sem neiti tilveru guðs.

Hin stærsta synd vantrúarinnar segir hann (á 11. bls.) að sé alvöruleysið. En má ég spyrja: var Sókrates gáskamaður, eða Buddha, eða Markus Aurelius? Eða þeir sem brendir voru fyrir trú sína, svo sem Giordano Bruno eða Servetus, og sem taldir eru í flokki vantrúarmanna? Ég held ekki. — Það má alt að einu snúa þessu upp á þá sjálfa, kyrkjumennina, og segja, að þeirra stærsta synd sé alvöruleysið, að vera að berja það fram fyrir alþýðu, sem guðdómlegt, sem skynsemi þeirra forkastar, sem þeir sjálfir játa, að stríði á móti öllu viti og skynsemi.

Svo fer hann að tala um hina "hærri krítík." Þar segir hann það hverju orði sannara, að kritik þessi hafi hafið upp sinn volduga þórshamar, og mulið til mergjar eftir sínu höfði hverja grunsama setning. Árangurinn sé getgátur um gildi bókanna. Og svo viðurkennir hann, að "flestar hafa þær miðað í áttina til, að vefengja það gildi, er hið helga ritsafn hefir haft á meðvitund trúaðra manna. Þegar séra Friðrik er búinn að segja þetta, þá kemur æði undarlega fyrir, að hann skuli segja rétt á eftir: "Gildi gamla-testamentisins stendur því alveg óhaggað þann dag í dag." Ástæðan fyrir því, að gamla-testamentið skuli standa óhaggað, er einmitt sú, að allir þeir, sem mest og best vit hafa á að dæma um það, hrinda því og

forkasta. Ef einhver kann að rengja mig, þá vil ég benda á, að þessi fáheyrða röksemdaleiðsla er á bls. 13 í fyrirlestrinum. Með svona löguðum sönnunum má sanna, að ilt sé gott, svart sé hvítt, hrátt sé soðið. Og við menn, sem taka svona lagaðar sannanir gildar, er ekki til neins að tala; þeir eru dýr að viti. en ekki menn. Og ég er hálfhræddur um, að presturinn hafi ekki haft sérlega háar hugmyndir um sauði sína, þegar hann fór að bera aðra eins sönnun á borð fyrir þá, og þessa.

Svo fer séra Friðrik að sýna mismuninn á vísindum og trú. Eins og nærri má geta hefir hann þar rétt fyrir sér; hann segir, "að trúin staðhæfi það fyrirfram, sem henni sé ekki unt að færa vísindaleg rök fyrir. En vísindin megi enga slíka trú hafa, þau megi ekkert vita, ekkert staðhæfa, fyr en þeim er unt með ómótstæðilegum rökum að færa sönnur fyrir máli sínu. Þetta er altsaman mikið gott. En svo segir séra Friðrik á sömu blaðsíðu, að vísindamennirnir ákveði fyrirfram niðurstöðu þá, sem þeir ætli sér að komast að. Það er ekki rétt. Þegar vísindamaðurinn kemur að biblíunni, þá er hann hvorki trúaður né vantrúaður; hann fer að skoða hana eins og hvern annan hlut, eins og fornfræðingurinn skoðar steingjörfing eða gamlan pening, og nú fer hann að reyna að komast að því, hvað þetta sé, skoða hana í krók og kring, fletta blöðunum, lesa innihald hennar, rannsaka, hvort það sé nú satt sem hún segi, ef að það er satt, þá hlýtur hann að viðurkenna það, hann getur ekki hrundið því með trú, einmitt fyrir þá sök, að hann viðurkennir ekki gildi hennar; hann getur ekki hrundið biblíunni með öðru en því, að sýna og sanna það með ómótstæðilegum rökum, að hún sé mótstríðandi sannleikanum. Aftur staðhæfir trúmaðurinn það fyrirfram, að hann geti ekki komist að annari niðurstöðu en þeirri. sem hann hefir hugsað sér fyrirfram. Honum er sama hversu sterkar sannanir eru á móti, hann metur þær einskis, hann metur það ekkert, þó að þessi trú hans stríði á móti öllu viti og skynsemi, hann fer í gegnum heilt, vekur upp dauða, lætur sólina standa kyrra, keyrir í skýjunum, gengur á sjónum auðum, gerir jörðina flata, neitar því, að tvisvar tveir séu fjórir o. s. frv.

Svo kemur nú ruglingurinn hjá séra Fr. Hann segir að vantrúarmaðurinn neiti því, að guð sé til. Vér Unitarar erum hér um bil æfinlega kallaðir vantrúarmenn, af kyrkjumönnum, en vér neitum þó ekki guði, vér höldum því einmitt fram, að vér höfum æðri og háleitari hugmyndir um guð, en kyrkjumennirnir. Þess vegna

er þetta alt hjá séra Friðriki talað út í hött, að því er oss Unitara snertir.

Svo þykist hann, á bls. 15, vera búinn að færa fullkomnar sannanir fyrir því, að gamla-testamentið standi alt óhaggað eftir alla þá skelli, sem vantrúin sé búin að gefa því. En sannleikurinn er sá, að hann er ekki búinn að koma með eina einustu sönnun; hann hefir verið að tala út í hött um hitt og þetta, til þess að látast hafa eitthvað að segja. En hvað þetta sýnir mikla virðingu fyrir hans eigin sauðahjörð, að bjóða þeim þetta! En láti þeir sjálfir það gott heita, þá er að eins fyrir okkur að brosa.

Svo segir hann, að vantrúarmennirnir, sem hafi verið að leitast við að útrýma guði úr hjörtum manna, hafi vakið upp heilan her af "trúuðum vísindamönnum." Ég veit nú varla við hvað hann á, því að fyrst er það, að þetta getur ekki átt við oss únítara, sem viðurkennum guð, og svo er ómögulegt af þessu að sjá, hvað meint er með þessum "her af trúuðum vísindamönnum." Við presta kyrkjunnar getur ekki verið átt, því að þeir geta ekki kallast vísindamenn, nema þá kanske einstöku maður og þá að eins í þeim greinum, sem trúin á ekkert skylt við, því að trúin í sjálfu sér, segir séra Friðrik að sé alveg öfug við vísindin. En hitt er eigi neitt furðanlegt í sjálfu sér, að þessir vantrúarinnar erindsrekar, vísindamennirnir, veki upp heilan her af trúuðum mönnum á móti sér. Það hefir æfinlega verið svo, þegar einhver hefir komið fram með einhvern nýjan sannleika í heiminum, að þá hefir skríllinn, trúmennirnir á hið gamla, klerkarnir, risið upp og ætlað að rífa hann í sig. Svo var um Krist, svo var um Sókrates, svo var um Jóhann Huss, Hieronymus frá Prag, Luther, Savonarola, Giordano Bruno, og ótal, ótal fleiri.

Þá segir hann, að þekkingin sé öll sín megin. En það liggur einmitt í eðli trúarinnar, að þekkingin getur ekki verið hennar megin, þar sem hún ákveður fyrirfram þá niðurstöðu, sem hún ætlar að komast að. Þó að því þekkingin sé á móti því, þá þýðir það ekkert, trúin vegur meira.

Á bls. 16 kemur séra Fr. fram sem spámaður, þar sem hann segir: "Allar líkur eru til, að barátta þessi muni harðna, og að fyrir henni muni hin veika og verjulitla þjóðlífsbygging vor skjálfa." Vér erum alveg á sama máli og hann um þetta, og það því fremur, sem allur þorri hinna margbreytilegu kyrkjudeilda, eru á hraðri leið að kasta einni kreddunni á eftir annari, að kaþólskum einum undanskildum.

Svo kemur þetta vanalega hjá klerkum, að þeir segja, að and-

stæðingar sínir viti ekkert. Hann segir: "Þeir slá um sig þessir menn með jarðfræði, stjörnufræði, málfræði, kenningum Darwins og ótal fleira, þótt ekki hafi þeir minstu hugmynd um allra fyrstu undirstöðuatriðin í neinu þessu." En veit séra Fr. þá meira um þetta? Hann er ekki jarðfræðingur, ekki stjörnufræðingur, ekki málfræðingur, kann ekki einu sinni sitt eigið móðurmál, því að vér getum bent honum á málfræðislega villu einmitt í þessari stuttu klausu, sem hér var upp tekin. Og svo er hitt, að ef að við förum að slá um okkur með fræðum, sem við þekkjum ekki einu sinni undirstöðuatriðin í, þá er því léttara fyrir hann að hrekja. En það er annað, vér segjum og *sýnum* það satt að vera, að jarðfræðin, stjörnufræðin málfræðin, þjóðafræðin sanni, að biblían geti ekki verið bókstaflega innblásin. Þessar fræðigreinar sýna fram á ótal vitleysur í biblíunni. Það verða því fræðigreinarnar sjálfar, sem klerkurinn þarf að hrinda og sanna, að séu rangar og vitlausar. Hann þarf að sanna, að fræðimennirnir sjálfir, sem fremstir eru í þessum vísindum, séu heimskir, viti ekkert hvað þeir séu með að fara. En hverjir eru þeir, sem ekki mundi verða að brosa, ef að ætti að fara að bera þá klerkana hérna saman við hina mestu menn í þessum greinum? Ef að séra Friðrik hefði hrakið eitt einasta af þessum jarðfræðislegu, stjörnufræðislegu eða málfræðislegu rökum, þá hefði hann sýnt hver maður hann var, en fyrst hann hefir ekki gert það, þá höfum vér fulla ástæðu til þess að ætla, að hann risti ekki djúft í þeim greinum. Enda reynir hann ekki í þessum fyrirlestri sínum, að hrekja neina þesskonar sönnun andstæðinga sinna. Maðurinn finnur, að þar mundi hann sundinu tapa. [Framh.]



# Framtíð Islam's.

Eftir MAULVI AZIZ-UDDIN AHMAD
frá Lucknow í Hindustan.
(Þýtt úr Open Court.)

---

Lesendur Dagsbrúnar hafa lítið heyrt um Islam, Mahómeds-trú, sem alment er kölluð á íslenzku, og því birtum vér grein þessa. Það er Mahómetstrúarmaður sem sjálfur lýsir trú sinni. Í grein þessari getur maður líka fengið sýnishorn af því, hvernig Muhammad, höfundur trúflokks þessa, kom fram í heimilislífi sínu. Það

er sjaldgæft, að geta fengið rétta hugmynd um heimilislíf mikilla manna, en hér segir ein af konum Muhammads svo greinilega frá því, að vér getum hugsað oss sem vér hefðum horft á það sjálfir.

Fyrst skýrir hann, hvað "Islam" sé, en það er nafn það, er þeir sjálfir gefa trú sinni. Eiginlega er það "al-Islam," og þýðir að maður gefi algerlega vilja sinn undir guð. Inntak trúarinnar er, að finna í Quran (Kóraninum), er þýðir lesari. Kendi Muhammed hann lærisveinum sínum í smápörtum, en þeir færðu hann í letur 22 árum eftir dauða hans, og viðtóku sem óskeikanlegt guðsorð. Þeir trúa því, að hann sé bókstaflega innblásinn af guði, hvert eitt einasta orð.

Höfundur Islamstrúar var Muhammad sonur Abdulla. Lýsir A'yisha, kona hans, honum á þessa leið:

"Hann var eins og hver annar maður, hló oft og brosti mikið. Á heimili sínu fékst hann við hin sömu störf og alment gerist. Hann bætti föt sín og skó sína. Vanalega hjálpaði hann mér við heimilisstörfin, en oftast fékst hann þó við það að sauma. Ef hann átti um tvent að velja, þá kaus hann það sem léttast var, svo að honum yrði síður hætt við að syndga. Aldrei var hann hefnigjarn, nema þegar guði var óvirðing gerð. Væri hann einhverjum reiður, var hann vanur að segja: 'Hvaða ósköp hafa yfir mann þennan komið, að hann skuli ata ásjónu sína í saurnum!'

Lítillæti sitt sýndi hann með því, að ríða á ösnunni, með því, að þiggja heimboð þræla sinna, og að taka mann fyrir aftan sig, þegar hann var ríðandi. Hann var vanur að segja: "Ég sit að borðhaldi sem þjónn, og ét sem þjónn"; og þannig sat hann, að hann var jafnan búinn til þess að standa á fætur. Hann hélt á móti föstum og sjálfspinding allri. Þegar hann settist hjá áhangendum sínum, þá var hann oft þegjandi langa hríð í einu. Í bænahúsinu í Madina höfðu þeir oft yfir skáldskap, og sögðu sögur um atburði, er skeð höfðu á "dögum vanþekkingarinnar"; hlustaði þá Muhammad á þá, og brosti oft að því, er þeir sögðu.

Muhammad hataði ekkert jafnmikið og lygina; og hvenær sem hann varð þess vísari, að einn eður annar af flokki hans hefði orðið sekur um það, þá forðaðist hann mann þann, þangað til að hann var orðinn viss um, að hann vildi bæta ráð sitt.

Hann talaði ekki hratt, svo að hvert orð ræki annað og fléttaðist saman við það, heldur bar hann sérstaklega greinilega fram hvert eitt atkvæði, svo að það sem hann sagði, eins og greiftist inn í minni allra þeirra, sem heyrðu hann. Þegar hann var við opin-

bera bænagerð, mátti sjá það í fjarska, að hann var að biðjast fyrir, af því, hvernig skegg hans bærðist. Aldrei las hann sönglandi, heldur skýrt og hægt og þagði í millum. Þegar hann las innganginn að kapítula einhverjum í kóraninum, þá þagði hann jafnan á eftir orðinu bismillah eða ar-Rahman og á eftir ar-Rahim.

Hann var vanur að ganga svo hratt, að menn þurftu að hálfhlaupa, og gátu þó varla haldið í við hann.

Aldrei mataðist hann liggjandi, því að Gabriel hafði sagt honum, að það væri konunga siður; og ekki lét hann heldur tvo menn ganga á eftir sér. Vanur var hann að matast með þumalfingrinum og tveim næstu fingrum, og þegar hann var búinn, var hann vanur að sleikja þá, og byrjaði fyrst að sleikja löngutöng. Þegar Gabriel bauðst til að gefa honum dalinn Makka, fullan af gulli, þá hafnaði hann því, og kvaðst mundi í auðmýkt koma fram fyrir guð, er hann hungraður væri, en með lofgjörð, er hann væri saddur.

Svo var hann stiltur, að eitt sinn er þjónustukona ein hafði dvalið nokkuð lengi í sendiför nokkurri, þá þótti Muhammad, og mælti hann: 'Ef að lögmál endurgjaldsins væri ekki á móti því, þá mundi ég hafa hegnt þér með tannstöngli þessum'."

Lýsing þessi er orðrétt tekin eftir A'yisha, einni af konum hans og sýnir hún, að í augum heimilismanna sinna, geta miklir menn verið barnalegir, en um leið, hve mikla virðingu hann hefir hlotið af þeim, er stóðu honum næstir. Því að svo ofur barnalegt sem þetta er, þá ber það þó bæði vott um ást og virðingu.

Muhammad var fæddur í Makka (Mekka) 20. Ágúst 570 e. Kr. Hét faðir hans Abdulla, en móðir A'mina. Var hann af ættinni Hashim, sem göfugust var af arabiska ættflokkinum Quraish (Korcish), er á að vera kominn af Ismail Abrahamssyni. Faðir Abdulla var Abdul Muttalib, er gætti musterisins Ka'ba. Þegar er Muhammad fæddist, sendi móðir hans A'mina mann á fund föður hans með tíðindin. Hitti sendimaður hann í Ka'ba, ásamt öðrum höfðingjum og varð hann glaður við og gekk heim til A'minu. Tók hann barnið í fang sér, bar hann til musterisins og gjörði guði þakkir.

Þegar Muhammad var 25 ára gamall gekk hann í þjónustu ekkju einnar Khadija að nafni, og gekk að eiga hana litlu seinna. Var hún 15 árum eldri en hann, en þó tók hann sér enga aðra konu meðan hún lifði. Dó hún árið 1619, 65 ára að aldri. Eftir dauða hennar tók Muhammad sér 10 konur.

Í Makka var Muhammad kent að dýrka jafn marga guði og dagar voru í árinu. Var hann orðinn mjög hugsi um trúmál, er

hann kom á fertugsaldur. Lagðist þungt á hann marggyðisdýrkun og siðaspilling þjóðar sinnar og hinar myrku og óljósu skuggamyndir kristninnar og gyðingatrúarinnar vöktu hjá honum efasemdir, er hann gat ekki greitt úr, og var hann í mjög miklum efa um það, hver væri hin sanna trú.

Þá látum vér aftur A'yisha segja frá:

"Hin fyrsta opinberun, sem spámaðurinu fékk, var í draumi. Voru draumar hans berir og samstæðir, sem í vöku væri. Fór hann þá að halda til á afviknum stöðum, og hélt helst til í helli einum í Hira-fjalli og baðst þar fyrir dag og nótt. Við og við kom hann heim á heimili sitt og sótti matvæli til að nærast á. Gekk þetta þangað til, að hann dag einn fékk opinberun, og kom þá engill til hans af himni ofan og sagði: "lestu," en spámaðurinn svaraði: "ég er enginn lesari." Sagði spámaðurinn svo frá, að engillinn tæki sig og hristi sig alt hvað hann þoldi, og sagði svo aftur: "lestu," en spámaðurinn svaraði: "ég er enginn lesari." Þá tók engillinn hann aftur og hristi hann, sem hann þoldi, slepti honum síðan og sagði: "lestu," en spámaðurinn svaraði: "ég er ekki lesari"; en þá tók engillinn hann enn einu sinni, hristi hann og mælti: "lestu í nafni drottins þíns sem skóp, skóp manninn af blóðhnikli; lestu, því að drottinn er góðgerðasamur, sem hefir kent mönnum, að neyta pennans, sem hefir kent mönnum það, sem þeir þekkja ekki.

Síðan er þetta haft fyrir inngangs-seremoníu á barnaskóla Mahómetsmanna, eru börnin hrist vel og látin hafa þetta eftir, og síðan eru þeim sætindi gefin.

Hinn 20. Júní 622 e. K. varð Muhammad að flýja frá Makka til Madina, og hefst þá tímatal áhangenda hans.

Árið 6 (þeir töldu frá þessum flótta hans til Madina) tók Muhammad sig til og skrifaði konungum nokkrum og bauð þeim, að taka Islam. Sem sýnishorn er hér bréf hans til Heraclíusar keisara.

"Í nafni guðs hins miskunsama (ritar) Muhammad, þjónn guðs og postuli hans. Haraql, keisara í róm. Friður sé með hverjum þeim, sem gengur á hinum beina vegi. Eftir þetta segi ég: sannlega kveð ég þig til að taka Islamtrú. Tak þú trúna og mun guð launa þér tvöfalt. Ef að þú þrjóskast og vilt ekki Islam taka, þá komi yfir þig syndir þjóðar þinnar. Ó þér bókarinnar menn (þ. e. kristnir), komið og takið trú þá, sem hæfir bæði oss og yður. Það er þetta, að dýrka engan nema guð, og ekki að fela neitt annað í guðshugmyndinni (hvorki andann né Krist) og ekki að kalla aðra guði.

Gætið yðar því, þér bókarinnar menn, ef að þér hafnið þessu. Vér erum Muslíms og trú vor er Islam."

Einnig skrifaði hann "Shah'-num í Persalandi, en hann reif í sundur, bréf hans. Þegar Muhammad heyrði það, þá mælti hann: "Þannig skal ríki hans í sundur tætt verða," og varð það orð og að sönnu. Konungurinn í Abyssiníu tók bréfi hans vel, og landstjórinn í Egyptalandi sendi honum aftur kurteist svar og tvær ungar og fríðar Koftastúlkur: gaf spámaðurinn aðra Hassan skáldi, en hafði aðra sjálfur. Átti hann son með henni, Ibrahim, og gaf henni frelsi er hún fæddi sveininn, og hefir það verið siður áhangenda hans síðan.

Eftir að Muhammad hafði lagt undir sig alla Arabíu, átti hann á efri dögum sínum að stríða við uppreistarmenn ýmsa. Merkastur þeirra var Musailima. Hann skrifaði Muhammad bréf á þessa leið:

"Musailima spámaður guðs (sendir) Muhammad spámanni guðs (kveðju sína). Friður sé með þér. Ég er félagi þinn. Skiftum völdunum milli okkar. Hálf jörðin er mín, en hálf er hún (eign) Quraish-manna. En Quraish eru gráðugir og gera sig ekki ánægða með sinn hluta."

Muhammad svarar bréfi þessu þannig:

"Muhammad spámaður guðs, Musailima lygaranum. Friður sé yfir þeim, sem fylgja hinum beina vegi. Jörðin er guðs og hann gefur hana hverjum sem hann vill. Þeim einum líður vel, sem guð óttast."

Ég hefi tekið bréf þessi orðrétt upp til þess, að sína einkennilegan hugsunarhátt, einkennilegan stílsmáta. Setningarnar eru stuttar, samandregnar, einfaldar og barnalegar; yfir höfuð eru hugsanirnar og setningarnar keimlíkar setningum og hugmyndum úr ritningunni, enda voru Arabar frændþjóð Gyðinga, og Muhammad var kunnugur bæði trú kristinna manna og biblíu Gyðinga.

Tvö eru aðalatriði Islams-trúar: trúin og verkin.

Trúin er innifalin í þessum sex atriðum:

1. Að trúa á einn guð. 2. Að trúa á engla. 3. Að trúa á innblásnar bækur. 4. Að trúa á innblásna spámenn. 5. Að trúa á dómsdag. 6. Að trúa á ráðsályktanir guðs.

Verkin, sem trúin útheimtir, eru þessi:

1. Að hafa upp iðuglega trúarjátningu þessa: "Enginn er guð nema guð, og Muhammad er hans spámaður."
2. Að biðnast á tilteknum tíma, 5 sinnum á dag.
3. Að fasta 29 eða 30 daga í mánuðinum Ramazan.
4. Að greiða hinar lögboðnu ölmusur.

5. Að fara pílagrímsferðir til Mekka.

Islamstrú er í því fólgin, að trúa þessum sex trúaratriðum, og fylgja þessum fimm trúarreglum.

Þessu næst getur greinarhöfundurinn um útbreiðslu Islam. Hún breiddist skjótlega út um alla Arabíu, Persaland, Egyftaland, Norður-Afríku, á eyjarnar í Kyrrahafinu, til Malayja, Mongóla, Inda. Sjálfsagt yfir 200 milj. manna eru þessarar trúar. Sjaldnar er það, að Islamstrúarmenn snúist og taki kristni, en öllu oftar kasta kristnir menn trú sinni og taka Islam.

Svo minnist Islamstrúarmaður þessi á kristni, og segir, að hún innihaldi alt eða flest það, sem gott sé í öllum trúbrögðum, að viðbættum kenningum Krists og endurlausninni fyrir blóðið, ásamt boðorðinu, að elska óvini sína, án þess að segja nákvæmar álit sitt um kenningar þessar.

En hann tekur það fram, að af þeirri ástæðu gangi svo illa að kristna heiðnar þjóðir, að kristnir menn vanræki svo boðorðið, að elska vini, náunga og óvini. Af því, hvað þeir elski mikið sjálfa sig, sé þeim sjálfum mest hætta búin. Þeir safni peningum af elsku til Krists og heiðingjanna, en eyði þeim að mestu, ef ekki öllu leyti, í menn, sem hvorki elski né skilji heiðingjana. (Hér er víst átt við kristniboðendurna). Kristnir menn láti drýgindalega yfir því, hvað þeir vilji gera mikið fyrir heiðingjana, en sjái þeir einn heima hjá sér, þá sýni þeir honum mjög sjaldan kristilega góðvild. Í Ameríku verða hinir upprunalegu íbúar landsins, negrar og mongólar, að sæta ókristilegri meðferð, og fordómum, sem ekkt þekkist hjá Islamstrúarmönnum. Englendingar hirða og ekkert um heiðingja heima á Englandi, nema þeír séu ríkir. Kristni sú, sem trúboðarnir kenna og sýna í verkinu, niðurlægir þá sem kristna trú taka. Þeir eru útskúfaðir frá hinum fyrri trúbræðrum sínum, en eru ekki fyllilega teknir í bræðrafélag kristinna manna. Kristniboðinn er ætíð sem útlendingur, og vill jafnan standa ofar en þeir, er hann snýr til kristni. Og ef að einhver, sem kristni hefir tekið, ferðast til Evrópu eða Ameríku, þá beita kristniboðar öllum brögðum til þess, að spilla fyrir honum, af því að þeir ætla, að framburður hans komi ekki heim við fregnir þær, er þeir sjálfir segja af kristniboði sínu.

Framtíð Islamstrúar er trygð með kærleika þeirra innbyrðis hvers til annars. Skólar eru þar opnir öllum. Þar er enginn stéttamunur, enginn munur gjörður á þjóðflokkum. Þar er einn guð og ein þjóð. Það er miklu meiri sjálfsafneitun og miklu minna blaða-

gort hjá trúboðum Islams, en trúboðum kristninnar. Á Englandi eru það enskir menn, sem eru trúboðar Islams, og á trúarþinginu í Chicago var það Amerikanskur maður, sem mætti fyrir hönd Islams. Kristnin þrífst ekki fyr, en kristnir menn breyta eins.



# *Unitarismus.*

## Stutt ágrip af hinni unitarisku sögu.

---

Orðið 'unitarian' er dregið af latneska orðinu 'unus,' sem þýðir 'einn,' og kallast svo þeir menn, sem trúa á einn guð, í mótsetningu við 'trinitarians,' þá, sem trúa á þrennan eða þríeinan guð. Orðið heyrist fyrst 1570, um menn í Ungarn, en er lítið við haft fyr, en á 17. öld; þá fóru ýmsir flokkar að kalla sig Unitara. Fyrst voru þeir, sem þessa eður líka trú höfðu, kallaðir anti-trinitarians (mótþrenningarmenn), Ariani, Sociniani og Racoviani. Í Ameríku hafa þeir oft verið kallaðir: unitariskir congregationalistar, af því, að þeir voru í fyrstu úr congregationalista trúflokki.

Eiginlega er því Unitarismus kenning um það, að guð sé einn, og er kenning sú miklu eldri en kristni. Í þeim skilningi voru Gyðingar kristnir, þegar þeir loks voru búnir að losa sig að fullu við fjölgyðishugmyndirnar, trúna á marga guði, sem lengi loddi við þá, jafnvel fram um herleiðinguna. Jesús Jósepsson og postularnir voru því uppaldir sem eingyðismenn. Og af Nýjatestamentinu sést það, að hinir fyrstu kristnu menn voru eingyðismenn, og svo voru Ebíonítar, en svo kölluðust leyfar hinna fyrstu kristnu Gyðinga. Þeir trúðu á einn guð, og hélst flokkur sá við þangað til á 5. öld e.K.

Þá var Aríusardeilan í hinnu kristnu kyrkju unitarisk. Arius kendi, að kristur væri óæðri föðurnum. Fekk hann marga áhangendur og urðu ýmsir ofan á, hann eða mótstöðumenn hans. Loks var kenning hans dæmd trúarvilla á kyrkjuþinginu í Niceu 325 e. K., og þrenningunni slegið fastri. En þá breiddust kenningar hans út til annara þjóða: Gauta, Herúla, Suefa, Vandala, Burgunda, og hélst kenning sú við fram á 6. öld. Postuli Gauta eða Gota, Ulfilas, var ariani. Þýddi hann ritninguna á gotnesku, og af riti því hafa menn enn fylsta þekkingu á gotneskri tungu. Ulfilas var fæddur árið 311 e. Kr.

Oft var það mjög tvísýnt, hverjir mundu bera hærra hlut, kristnir eða arianar, því að mjög var nærri um mannfjölda í flokkunum, en loks voru þó arianar bældir niður.

En með siðabótinni risu þeir upp aftur. Kyrkjan hafði um fleiri aldir verið þunghent á mönnum; fyrst bannfærði hún hvern þann, sem lét uppi frábrugðnar skoðanir, og svo fór hún að brenna þá, þegar bannfæringarnar hrifu ekki. En með síðabótinni kom los á alt.

Fyrsti píslarvottur Unitara var Adam Duff; var hann af lífi tekinn í Dýflinni á Írlandi árið 1326, en seinastur var Edward Vightman, er brendur var á báli á Englandi 1612. En merkastur allra unitariskra píslarvotta, var Michael Servetus, spánverji, er brendur var á báli í Genf, að áeggjun Calvins, 1553. Servetus þessi var vísindamaður mikill, kyntist hann Calvin í París 1536. Stundaði Servetus þá mest læknisfræði, en úr því fór hann að gefa sig mest við guðfræði. Sendi hann Calvin seinni rit sín: "Cristianismi Restitutio" (endurskipan kristninnar), og bað hann álits. Calvin var maður ofstækisfullur og heiftrækinn, og reiddist skoðunum Servetusar, og hét honum lífláti ef að hann kæmi á fund sinn. Eru til bréf Calvins, er sýna, að hann ætlaði að gjöra alt er hann gæti, til þess, að láta taka Servetus af lífi. Servetus varð að fara landflótta fyrir skoðanir sínar, og kom þá eitt sinn til Genf, þar sem Calvin var. Fór hann huldu höfði og ætlaði að leynast, en Calvin rakst á hann og þekti hann og sagði þegar til hans. Var hann svo hneptur í fjötra og ákærði Calvin hann fyrir guðsafneitun. Urðu þá harðar sennur milli þeirra, því að Servetus varði sig. En þó lauk því svo, að Calvin fékk hann á báli brendan 27. Október 1553.

Litlu eftir þetta komu þeir fram frændurnir Sociningar, Lelius og Faustus, ítalskir. Lelius var fæddur 1525. Var hann einn af siðabótarmönnum og kunningi Calvins. Var hann maður vel viti borinn, og tók brátt að hafa frábrugðnar skoðanir, um upprisu líkamans, útvalninguna, endurlausnina, iðrunina og sakramentin. Og loks, þegar mál Servetusar kom fyrir, þá herti það á honum, og fór hann þá að láta í ljósi skoðanir sínar um guðdóminn, og skildi þá að fullu með þeim Calvin og honum. Hann dó 14. Maí 1562.

Frændi hans, Faustus Socinus (á ítölsku Sozzini), fæddist árið 1539. Var hann rithöfundur mikill, og flutti kenningar náskyldar unitarismus: að kristur hefði ekki verið til frá eilífð, að hann hefði ekki upphaflega verið guð, en orðið guð fyrir sinn mikla kærleika,

Á efri árum hafðist hann mest við í Pólen, og réði trúarstefnu þar; voru þeir kallaðir Sociningar, er honum fylgdu.

Til Pólen höfðu um þessar mundir safnast saman menn af öllum þjóðum, er höfðu fráleitar skoðan'r í trúmálum við aðra siðabótarmenn. Þeir höfðu þar helst athvarf og griðastað, og undir Sigmundi konungi, 1559—1571, höfðu þeir fult frelsi. Flestir fylgdu þeir stefnu Ariusar. — Þangað fór Faustus og gjörðist foringi þeirra. Tóku þeir skoðanir hans og stofnuðu háskóla mikinn í Racow, og söfnuðust þangað brátt hinir mestu vísindamenn, og varð skólinn nafnfrægur. Voru menn af skóla þeim oft kallaðir "hinir pólsku bræður." En svo fór vald kaþólskra aftur að vaxa, og gátu þeir að miklu brotið niður stefnu þessa. En skoðanir þeirra breiddust þá suður á við til Sjöborga-ríkis (austurhluta Ungarns), og þar haldast þær mikið við enn.

Nú sem stendur ber mest á Unitörum á Englandi og í Bandaríkjunum. Fyrstir til þess að efla Unitarismus á Englandi, voru þeir Bernardinus Occhino, Faustus Socinus og fleiri. John Bidle hét sá, er reisti hina fyrstu kyrkju og myndaði hinn fyrsta unitariska söfnuð þar árið 1645, og er hann kallaður "faðir hinna ensku unitara." En brátt risu þar upp fleiri unitariskar kyrkjur, og dreifðist kenning sú víðsvegar um England. Milton, Newton, Locke og aðrir fleiri nafnfrægir menn, voru meira eða minna unitariskir. En flestir unitarar þar komu þó úr flokki presbyteriana. Meira en helmingur allra unitariskra kyrkna þar voru áður presbyterianskar og sumar þeirra halda nafninu presbyterian enn þann dag í dag.

Hið núverandi unitarafélag á Englandi var stofnað af séra Theophilus Lindsey. Gekk hann úr hinni ensku kyrkju og myndaði unitarasöfnuð, í Essex stræti í Lundúnum árið 1744, og voru í söfnuði þeim margir nafnfrægir menn. Næstur honum kom doktor Priestley, einhver fróðastur maður sinnar tíðar, rithöfundur mikill, og ritaði um flest vísindi, er þá voru kunn: stærðfræði, efnafræði, eðlisfræði, málfræði, hugsanfræði, sálarfræði, siðafræði, sögu, guðfræði, stjórnmálafræði og mannfélagsfræði, og þótti öllum mikið til koma. Hann fann fyrstur manna súrefnið (Oxygen). Á þeim tímum var það guðlast talið, að neita þrenningunui, og það var fyrst 1813, að unitörum var gjört jafnt undir höfði og öðrum trúflokkum, er ekki fylgdu ensku kyrkjunni. Á Englandi hefir unitaraflokkurinn þrifist vel, og eru nú unitarískir söfnuðir um alt England, Wales, Skotland og Írland.

(Framhald.)

# Segir mig heiðinn.

Eftir Jón Kjærnested.

Þú segir mig heiðinn, — jú, heiðinn ég er,
en heyrðu, vinur, kristinn reyndar líka.
Sem óbótamanni þú ámælir mér,
Og af því, — hvað? Mér stjórnar engin klíka!

Mín heiðni' er í því falin: ég hata þá trú,
sem hugann eigi getur bætt hið minsta.
Sem hræsnari stendur mjög hróðugur þú,
en hryggjast muntu' á deginum hinsta.

Þú segist, maður, hræðast mín hreinskilnis orð,
þau hrífi þig, sem ógnum þrunginn dauði.
Þitt ósjálfstæði reynist samt enn verra morð,
þú eigi nærast munt á lífsins brauði.

Þú segir, þig ógni við ófögnuð þeim,
að öllu leyti gömlum kreddum neita:
þín trú þig muni leiða' í ljóssins sali heim,
og líkn þér muni drottinn síðan veita.

Hræsnarinn ætla ég eigi þar ei bekk,
og öðlast naumast geti fyrír beiðni.
Því brjóttu af þér kyrkjunnar kúgunar-hlekk,
og komdu fram með þína hjartans heiðni.

En, ef þú átt kristninnar ilmandi blóm,
— þér ætla' eg holt að fylgja ráðum mínum —
þá geymdu þau óskemd að örlaga-dóm,
og afhentu þau síðan drottni þínum.

En vanti þig sannfæring, segðu við hann,
sem sagt er oss að kristindóminn leiði:
Ég skoða þig, vinur, sem veglegan mann,
og vísdómsríka hetju' á tímans skeiði.

Ef til er það líf, sem oss tímarnir spá,
og trúræknustu spekingar oss inna,
þá gilda mun að eins hið göfuga' oss hjá,
en gönu-sprettir trúarinnar minna.

# Frá lesborðinu.

## Saga Jesú Jósefssonar.

Margir eru þeir, sem sögur hafa skrifað af Jesú frá Nazaret, og segist nokkuð misjafnt frá, en einhver skemtilegasta sagan er nú nýlega gefin út af Houghton Mifflin & Co., Boston, Mass., og er titill bókarinnar: "Eins og aðrir sáu hann."Saga þessi á að hafa verið skrifuð árið 54 eftir Krist, áður en nokkurt guðspjallanna var skrifað. Hefir ritað hana Meshullam Ben Zadoc, skriftlærður gyðingur frá Alexandríu. Ritar hann hana Aglaophonusi, grískum lækni í Korintuborg, er hafði gjört fyrirspurnir til hans, út af starfi Páls, um höfund kristinnar trúar. Gyðingurinn skrifar vini sínum á þessa leið:

"Hvað snertir þennan Jesú frá Nazaret, þá get ég mikið sagt þér, ef ekki alt, sem þar um er að segja, því að ég var í Jerúsalem allan þann tíma, sem hann kom fram, sem leiðtogi manna, alt til hins svívirðilega dauða hans. Þó get ég ekki sagt þér alt, sem ég veit í bréfi einu litlu, og hefi ég því skrifað þér það í lengra máli og mun það verða afhent þér með bréfi þessu."

Rit þetta er skrifað í söguformi frá sjónarmiði manns, er tók hlutdeild í kjörum Jesú, og var honum heldur vinveittur en ekki. Hver sem rithöfundurinn er, þá er hann vel kunnugur lífi Gyðinga í þá daga, og margar venjur, lög og hættir þeirra tíma og þess lands eru ofnar inn í sögu þessa á hinn náttúrlegasta hátt. Og þó að maðurinn sem lýsir Jesú, sé ekki algerlega samdóma honum í kenningum hans, þá er þó einkunn Krists látin skýrlega koma fram, en út á setur ríthöfundurinn, og þó vægilega.

Rithöfundurinn segist sjálfur hafa verið viðstaddur marga af helstu atburðunum í lífi Jesú, svo sem fjallræðuna, yfirheyrsluna frammi fyrir Pílatusi o. s. frv., og lætur hann menn fá hugmynd um áhrif þau, sem atburðir þessir höfðu á ýmsa flokka mannfélagsins. Bók þessi er mjög gagnleg þeim, sem vilja kynna sér sögu Gyðinga. Hún er 217 blaðsíður og kostar $1.25. — PHILOS JOURNAL.

---

## Friður milli trúar og vísinda.

W. D. Le Sueur skrifar í Maí-númer af Popular Science Monthly um þetta efni og heldur því fram, að trúin sé að linast í baráttu

sinni á móti vísindunum. Hann lætur trúna segja til vísindanna: "Ég er ekki lengur í óvinaflokki yðar, og því skuluð þér nú segja mér hreint út alt, sem þér vitið um heiminn og uppruna hans, um manninn og forfeður hans. Segið oss, hvaðan vér komum, hvernig vér höfum orðið það sem vér erum, með þessum hugsunum og tilhneigingum, vonum, ótta, hjátrú og hindurvitnum, sem oss fylgja enn; og svo hvernig framtíðar vér megum vænta. Segið oss, ef að þér getið, hver er orsök heims þessa. Upp frá þessu skal ég ekki deila við yður um nokkurt það atriði, sem þér getið sannað. Boðið því heiminum boðskap yðar óhindrað, segið oss allan þann sannleika, sem þér þekkið."

Ef að klerkar alment hefðu þessa skoðun, þá væru minni deilur um trúbrögð, en nú eru; þá fengju trúbrögðin fyrst sitt rétta sæti. Þau gætu þá aldrei strítt á móti skynsemi og viti. En því er nú ver að því er ekki að fagna, og mikið má trúin breytast, þangað til það verður alment, að klerkar taki sér þessi orð í munn.

---

## Gimsteinn sannleikans.

Rússneskur gyðingur, Jakob Prelooker að nafni, vísindamaður frægur, hefir nýlega komið fram með guðfræðislega líkingu, bæði sanna og fagra. Líkingin er um gimstein sannleikans, sem týndist einmitt fyrir það, hve vandlega menn vilja gæta hans.

Gamall maður lét börnum sínum eftir sig dýrmætis gimstein og sagði, að þau mundu jafnan farsæl vera, meðan þau geymdu hans. Þau létu gimsteininn í stokk einn. Næsta kynslóð lét utan um stokk þann annan stokk, þriðja kynslóðin lét enn annan stokk utan um hina, sem fyrir voru, og svo bætti þannig hver kynslóð við stokk utan yfir stokk, uns stokkurinn varð mikill sem hús væri. Seinasta kynslóðin dýrkaði stokkinn sem guð, en vissi ekkert um gimsteininn. Og þegar svo maður einn kom og vildi fræða landa sína um gimsteininn, sem fólginn væri í stokknum, var hann smánaður og krossfestur.

Líking þessi getur átt við allar þjóðir og alla menn, hverrar trúar sem eru. (Christian Register.)

---

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.

Ritstjóri: Magnús J. Skaptason.
538 Notre Dame Ave.

Féhirðir og afgreiðslumaður: Magnús Pétursson.
601 Ross Ave., Winnipeg.

Heimskringla Prtg. & Publ. Co.